# ×Tvær fáordar Líkrædur,

fluttar vid Jardarför

***Madame sálugu***

## ÖNNU SIGRIDAR ARADÓTTUR,

*Konu*

***Prófasts Síra P. Péturssonar,***

*ad Stadastad 23 Mai 1839.*

Af


**Síra Sigurdi Jónssyni,**

fyrrum Presti til Goddala og Ábæar Safnada




---


**Kaupmannahöfn.**

*Prentad hjá P. N. Jörgensen.*

**1840.**

## I.

# ÁDUR ENN ÚT VAR BORIN LÍKKISTAN.

**Dyrdin er hvorfin frá Israel!**

sagdi kona Phineasar, sem lesa er í firri Samúelisbókar 4. kap. 21ta v., þegar madur hennar og mágur höfdu látizt, og sama itrekar hún aptur í 22ru v., harms og trega vegna, segjandi:

*Vegsemdin er í burtu frá Israel!*

Á líkan hátt megum vid nú heimilisfólk og hjú á Stadastad, samt fleiri aðrir, sem nákægir eru og til þekkja — med líkum harmi og trega í brjósti segja:

***Prydin er nú horfin*** **um stundarsakir** ***fra Stadastad!***

Þvíad húsmódirin þar, *Annasigrídur Aradóttir*, er nýsálud! Því hver er prýdin fegri, en blíd, fríd

ljúflynd, skynsöm, góðgjörn, gudhrædd, örlat, medaumkunarsöm og þrifin húsmódir? — og allt þetta var *Annasigrídur* í húsum þessum. Hún var daglegt yndi og önnur hönd húsfödursins, hjúunum mild og gédprúd og góð fyrimind í ordi og verki. Hún var gestonum gestrisin, og lauk ljúflega upp fyrir þeim, sem klöppudu á húsdyr hennar; því einsog þad var altíd nóg hjartarúm fyrir til þess hjá henni, eins brast hana skjáldan húsrúm. Hún var ekki heldur afnudin þeim þurfandi, sem hún opt retti gjöfula hönd eptir efnum.

Hefdu þá allar ekkjurnar í Joppe fordum orsök til þess, grátandi að flykkjast kríngum postulann Pétur, þegar Thabíta andadist, er á sinni tíd þjónadi Drottni, og var full góðra verka — sem lesa er í Post. b. 19. kap. — til ad sýna honum kirtla þá og klædnad, sem Thabita hafði gjört; hvert munum vér þá hafa minni orsök til ad flykkjast í kríngum Síra Pétur okkar, ekkaþrúngnir vinir hans. Ekki til þess ad sönnu: ad sýna honum kirtla þá og klædi sem Annasigrídur sæl kona hans gjördi, þvíad handbragd hennar mun á mörgum stödum hrósa sér sjalft, eptir daga hennar, og ad því mun spurt verda, þá allir vid erum komnir undir græna torfu: eptir hverja ern snilldarverk þessi? og ad því leiti má hér einnig heíma ega: *eptir lifir mannord mætt*, þó

*madurinn deyi.* Ekkjurnar gjördu hitt til að koma Pétri postula til að kenna í brjóst um sig, og til að brína þann kraptaverka anda, sem þær vissu að Jesus hafdi gefið honum, að því síður drægi hann af megni sínu, til ad reisa vinkonu þeirra upp frá daudum.

Jeg er hræddur um, að þad verdi til ad auka harma Péturs okkar ef vid þannig brínum hjarta hans; því eg er viss um, ad væri honum lédur kraptur þartil, mundi hann án þess, bædi sín og okkar vegna kalla Önnusigrídi aptur til þessa lífs.

Jeg er fullviss um, ad væri hún nú ekki í fadmlögum unnusta síns, Jesu Kristi, mundi hún nú ekki sídur enn Thabíta reisa sig upp á móti Pétri sínum. En, o! nú er komin önnur öld! Kraptaverkunum er slotad; en fyrir þad ætti kærleikanum ekki ad vera aptur farid, og þar kostur er ekki á því, sem vid gjarnast vildum: ad fá Önnusigrídi sæla aptur til þessa lífs; þá látum oss einsog Nains borgarmenn gengu út med ekkjunni — gánga út med *honum,* eptir líkbörum þessum, þar ekki er annars kostur! *Sá* er ekki fjarlægur, sem getur reist hana upp frá daudum, því víst mun hann ekki brigda ord sín, ad nálgast líkför þessa, og koma til þessa sorgar-samkvæmis í dag, þar ritad stendur í Matth. 18, 20.

*"Hvar sem tveir eda þrír eru samankomnir í mínu nafni, þar vil eg vera midt á medal."*

Höfum bidlund vid! Hans stund er enn ekki komin ad uppvekja þessa vora sártþrádu systur í Drottni, en hún kemur á efsta degi, þegar öll vor sorga-vötn snúast í sætt vín gledinnar.

Æ! við Stadastadar hjú kvedjum þig þá, *blessada húsmódir, Annasigrídur Aradóttir!* Vid kyssum nábleíkar varir þínar vörmum kærleíkskossi, og bidjum Gud ad gefa okkur, ad finna þig og samfagna þér í eylífu lífi! Og nú, "*þar naudsyn ber til slík,*" gaungum út úr húsinu med *honum* og med *hennar lík.*

---

## *II.*

## *YFIR LIKKISTUNNI.*

**Hvert ertu gengin, min vina? ó! þu hin fegursta medal kvennanna?**

Med þessum ordum Salomonis af Lofkv. 6ta Kap. 1ta v. virdist mér nú hyrdir Stadarstadar kyrkjusafnadar vilja spyría sína sárthörmudu konu, Önnusigrídi sælu Aradóttur, sem í lífinu var eins fögur og elskuverð, en Gud hefir nú fra honum tekid til dýrdar sinnar; ekki af því, að hann viti ekki vel, ad þeim verdi ekki vidtals audid, fyrr enn þau fá talad saman englanna túngum í eylífu lífi, heldur af því hann skinjar, ad þángad til getur gudsord verid túlkur millum þeirra. En nú, á medan hinar jardnesku leifar þeirrar, er hann unni svo mjög og fadmadi svo opt ad sínu elskanda brjósti, eru ekki byrgdar augum hans med þykkari ábreidu, enn einni skífu, þá getur ekki hjarta hans aptrad sér frá ad

adspyrja hana: *Hvort ertu gengin mín vina? þú fegursta medal kvennanna!* og svarid verdur af hennar hálfu: veg alls holds. Og hvört ertu þá komin, hjartad mitt? Til míns Guds og þíns Guds, míns födurs og þíns födurs. Máttir þú ekki fresta þessu, elskan mín? Nei! því eg var köllud af þeim, sem ennmeira rétt hafdi yfir mér, og enn meira tilkall til mín, Jesu, endurlausnara mínum á himnum. O! hví er þá höfudprýdi mín svo snemma af höfdi mínu fallin, sem Gud setti á þad á heidursdegi okkar? Mátti eg þá ekki bera hana nema hálft fjórda ár!

Þeir sem taka hjartanlega hlutdeild í þessum harmakjörum þínum, hærstvirdti og elskuverdi ekkill! þeim verdur einnig ad spyrja sjalfan þig med framhaldi orda Salomonis í textanum: *Hvort hefir þín vina vikid sér?*

Ekki er þad þessvegna, að vér séum svo hardbrjósta, ad vilja auka med því harma þína, sem annars eru nógir, heldur af því: *að vér viljum fara ad leita ad henni med þér.* Og firstir muni verda til þess þínir háttvirdtu og elskulegu tengdaforeldrar og adspyrja þig á þessa leid: Hjartkæri tengdason! sem varst sá besti og mjúklyndasti maður, sem vid gátum valid fyrir augasteinin okkar Önnusigrídi! megum vid ekki spyrja þig: *Hvort hefir*

*hún vikid sér?* Vid sjáum ekki munn hennar vid varir þínar, né hennar fógru hendur lagdar um háls þér, og ekki situr hún á kné þínu. Hvornig víkur þessu vid? Erud þid skilin? Og þú munt, besti herra vin! hljóta ad svara þeim: *Jú!* en ekki ad bordi og sæng fyrir ósamlyndis sakir, heldur er hún burt tekin — *eg eptirskilinn.* — Þad hugsudum vid ekki mundi drífa á daga okkar! Hvor hefir þá tekid hana burtu? — *Gud.* — Þá viljum vid þegja, og ekki ad finna. — Þannig munu þaug reyna til ad stilla harm sinn, þegar þeim berst harmasaga þessi; stilla, segi eg, en ekki útrýma; því, ef eg þekki rétt til, munu heit og tíd tár hrynja af augum þeirra yfir þessu. Eg óttast fyrir því, ad augnabrár þeirra muni ekki til fulls þorna í þessu lífi útaf söknudi Önnusigrídar sælu; en því vissari verdur fögnudur ykkar *allra*, þegar þid birtist fyrir stóli Guds og Lambsins.

Fleiri munu enn syrgja, og spyrja ad Önnusigrídi sælu, þvíad fleiri sakna; og fyrst og fremst munu þau hin holdgetnu sistkyni hennar koma, sem fordum tóku vöxt og vidgáng undir sama módurhjarta sem hún: Mágur! hvad er ordid af systur okkar, sem vid áttum von á í sóma og eptirlæti hjá þér? Vid þeirra spurníngu muntu einnig hljóta ad verda, vinur! Hvert svar liggur hér beinna vid

enn þetta: *Mín* hin hjartkæra er innleidd í meira sóma, og nýtur enn betra atlætis, enn eg gat audsýndt henni. Mín hin fagra hefir hvítfagad skrúda sinn í Lambsins blódi.

Ekki mun öldúngurinn fadir þinn géta séd þig gráta, né hún góda módir þín. Eptir mun þróttur í anda hans, þo ytri madur hans sé ordinn hrörlegur. Honum mun nú farast eíns og kerti því, sem fordum logadi vel á, en nú er farid ad daprast. Son minn! — mun hann spyrja þig — *Hvad stúrir þig?* Vera má þad sé hid sama, sem fordum mig, þegar eg misti mína gódu fyrri konu? Eg var þá nokkud eldri, enn þú ert nú. Renndu þá huga þínum fram á öldina, og gjættu ad, hvernig Gud rétti úr þeim raunum mínum, med því ad gefa mér í stad hennar hana módur þína, og med henni þig og systkyn þín, sem nú erud halft fjör æda minna. Sonur minn! Grát þú ekki! eg gét ekki séd þig gráta.

Þínir hæstvirdtu og háttvirdtu vinir, elskulegi bródir í Kristó! úr Helgafells og Stadastadar sóknum, sem nú standa hjá þér, og taka þátt í hörmum þínum, og vildu bera nokkud af sorgabyrdi þinni, einkum ef hún gæti nokkud léttz vid þad á sjálfum þér, sem med innilegum velvilja tóku á móti ykkur Önnusígridi sál., hafa borid ykkur híngadtil svosem á höndum sér, og hafa kepttz um ad sýna ykkur hvorn

virdingar og elsku vottin á fætur ödrum, spyrja þig nú einnig á sömu leid: *Hvort hefir þín vina vikid sér?* Og þú munt þeim svara verda — þó þúngbært sé — *þarna innan fárra fjala*, sem litadar eru sorgalit, *hvílir lidinn líkami hennar, en sálin er í Gudshendi, þar sem ekkert ángrar hana framar.*

En til þess þú vitir hærstvirdti vin! hver tilgángur spurnínga þessara er, sem kunna ad þreyta þig, þá vil eg svara þeim á líkan hátt og stendur í Lofkvædinu: *Vér viljum fara ad leita ad henni med þér.* Eg hefi, sídan á Uppstigningardaginn — þegar sál konu þinnar í fadmi frelsara síns héldt himnaför sína — heirt þig tala sömu meiníngar ordum, sem eg hefi sídan fundid og adgætt vid tækifæri þetta í Lofkv. 3. Kap. 1.-3. v. "*Eg leita á nóttunni í minni sæng eptir þeirri, sem sál mín elskar; eg leita, en finn hana ekki. Vaktararnir gengu í kríng í stadnum, og hittu mig; eg spurdi þá ad: hafid þid ekki séd hana sem mín sál elskar?* Vèr viljum ekki láta þig vera einsamlan í þessari leit; því vid foreldrar, systkyn og vinir hennar berum einnig söknud eptir hana, þó ekki sé hann á vid þinn söknud.

En hvornig egum vér nú öll saman ad leita hennar? Tökum saman rád okkar! Skulum vér mæda til þess fætur vora? Skulum vér — eptir máltækinu

— horfa öll augu úr höfdi okkar eptir henni? Þad mundi henni þykja berskulegt, sem Kristo sjálfum af foreldrum sínum: *Hví leitid þid ad mér?* vitid þid ekki, *ad eg er hjá födur mínum?* Kæmumst vèr í tal vid vaktarana, hina himnesku anda, sem hlotid hafa ad bera sál hennar í skaut Abrahams, efast eg ekki, ad þeir gætu sagt oss til hennar; en vér þurfum ekki þeirra tilsagnar vid. Vid höfum gudsord, og það getur sagt okkur, betur enn nokkur engill, hvar önd Önnusigrídar sællrar er. Þad segir oss: ad hver sá, sem hegdar sér af fremsta megni flekklaust í heimi þessum; sá sem elski Gud og náúngann og gjöri honum gott; sá sem setji alla von sína og traust til Kristi fridþægíngar, og lagi lifnad sinn eptir hans lærdómi *"skuli lifa þótt hann deyi," "allra hans synda skuli ad eylífu alldrei minntz verda,"* og ad sá sem hafi vardveitt trúna og góda samvizku allt til æfiloka, *"skuli hólpinn verda, og ödlast réttlætisins kórónu."* Já! vor sálada og sártharmada stríddí jafnan gódu strídi trúarinnar, því hún var jafnan trúrækin kona. I banalegu hennar heirdi einginn óþolinmædisord né örvæntingar af munni hennar. Hún var ekki fjölord á sóttarsænginni. Önnur ord heyrdust varla af munni hennar enn þessi: *Hjartad mitt! hagrædda mér! Jesus minn! hjálpadu mér!* og þad hid sídara, þá hinu

vard ekki lengur vid komid. Svo egnm vér þa helzt ad leita hennar, í þeirri von, ad finna hana, med því ad æfa talda mannkosti og dygdir hennar.

*Þegar eg var skamt framhjá kominn*, — segir brúdguminn ennframar í Lofkrædinu — *þá fann eg hana, sem mitt hjarta elskar.* Svo mun og verda fyrir þér, hærstvirdti elskulegi ekkill! Þóad þér kunni þykja lángt úr verda, sem vonlegt er, eptir svo elskuríkt hjónasamlyndi, sem er þad elskulegasta, eg hefi séd, þá ertu þo svo vel ad þér, ad þù veizt, ad þad er stund, en engin æfi þartil þú finnur hana; máske þegar minnst vonum varir, einkum þegar þú í huga þínum ber saman tíma og eylífd. Hægt er því þreittum ad þola, þegar þú rétt adgætir. Þó vil eg ekki vera óvorkunsamur vid þig; þjer mundi ekki heldur koma þad vel, sem von er til, því þú hefir eptir einhvorri hinni fullkomnustu konu ad sjá, bædi ad atgjörvi líkama og sálar. Hún var *skynsöm*, *gódgjörn*, *nákvæm og ástúdleg*, *mentud flestum konum betur*, *bædi til munns og handa.* Hvad gat verid ánægjulegra firir mann í þinni stödu og eins mentadann og þú ert. Gud hafdi ekki heldur gleymt bródur sálar þessarar líkamanum: *andlitid var fagurt*, *limalagid yndislegt*, *framgángurinn kurteis.* Þad lítur svo út, sem Salomon hafi lýst henni í Lofkv. 7da kap. 1ta v. *"Hversu fagur er þinn gángur á*

*skónum, þú höfdíngjans dóttir!* Þad er því ekkert skrum, þó eg kredi svo ad ordi um hana: *Hún var blómstur í dalnum og rós í Saron* (í sömu bókar 2um kap. 1ta v.) Og þú gatz jafnan, bródir minn! hugsad med sjálfum þer: *"Svosem ein rós á medal þyrnanna, svo er mín unnusta medal dætranna."*

Þó þú hafir nú eptir slíku ad sjà, viljum vér þó, vinir þínir, ad þú vid hafir hóf í söknudi þínum og sorg þinni. Vér væntum þess af ödrum eins vísindamanni: *ad vera syrgjandi og þó jafnan gladur.* Vér búumst vid, ad þú hafir mikla harma í hjarta þínu, en vér vonum þarhjà, ad Guds huggun verdi kröptug til ad endurnæra sálu þína; því, sem hálærdur madur í gudlegri frædi, veiztu: *ad Guds nádargáfa er eylíft líf í Drottni vorum Jesu Kristo.* Rómv. 6. 23., sömuleidis: *Ef vér trúum ad Kristur sé dáinn og upp aptur risinn, þá muni Gud framleida þá burtsofnudu í Kristo med honum.* 1 Thessal. 4, 14. Ef þú geymir þessa Guds hugsvölun í hjarta þínu, þá muntu ekki gramur í hug spyrja Gud: Herra! hversvegna gjördir þú mér þetta? því sála þeirrar, sem þú elskadir, er í musteri Guds; *Lambid leidir hana jafnadarlega fram ad ferskum vötnum.* Opinber. 7, 17. Eg veit ad þú manst, hvad Drottinn Jesus sagdi vid nafna þinn, og lesa er hjá Jóh. 13, 7: *Þú kemur því nú ekki*

*fyrir* þ*ig*, *hvad eg nú vid* þ*ig glöri; en eptirá skaltu skynja* þ*ad.* Haf því áminníngu og rád Davíds konúngs: *Hvarfyrir ertu nidurslegin sála mín og svo óróleg! Bíd* þ*u Drottins! Hann mun spekja sínni* þ*itt,* og sú bidlund færa þér heim sanninn um þad, ad þá mikill harmur er í hjarta þínu, þá vidhressi huggun Guds sálu þína.

*Gud almáttigur og einnsaman gjædskurikur gefi* þ*ér, syrgjandi ástvin og bródir í Kristo Jesu, ad gudsord, sem* þ*ú, einsog hálærdur Kristi* þ*jón, hefir gnægd af í hugskoti* þ*ínu, huggi hjarta* þ*itt!* og ad þad lítid, sem eg af litlum efnum, en ljúfum vilja af því hef framfært, mýki sár og söknud hjarta þíns, þángadtil því er albata ordid þessa meins í Guds himneska dýrdarríki! Amen!

---

## NOKKUR SAKNADARSTEF

### *heimilisfolksins á Stadastad, vorid 1839.*

Lag: Rerum certa salus.

Allt er í heimi hér
hérvistar blómid valt.
Valtrar af sjálfu sér
sérhvad? Nei! heitt og kaldt,
líf, dnudi, fold, lopt, flódin,
af Gudi stjórnast, skynja skalt!

Nú húmar, sezt er söl,
sem ádur lysti skær;
lifsstunda hradfært hjól
hleypur uns marki nær,
sem Drottinn sett því hefir;
yfir hvert komizt enginn fær.

Nú sést margs hjarta hrelldt.
Hvad fær slikt orsakad?
Eitt kikaiov felldt,
er hér á Stadastad,
sem skýldi, saddi, gladdi,
medan ad standa mátti þad.

Avi! burt er það flutt,
á himnum gródursett.
þess notastund vard stutt,
þó stædi hàtt og rétt;
fagurt, med frídum stofni,
blöd sín ilmandi' útbreiddi nett.

Söknudur sinnid lýr,
svídur nyhöggvin und,
ánægja' og indi flýr,
augun fá varla blund,
tár svaladrykkinn drygja
Æ! vorn saknada látna *lund!*

Ifir þó ættum vér
eilífri' ad fagna dýrd
*þeirrar*, sem þráum hér
og þrykkt fær meir engin rírd,
lundþída *lundsins* frída,
*Annasigrídur* er var skírd.

Gæti skéd, eitthvad ad
amadi snilld gangstædt,
í hverju sem hafdi stad
*hún*, einsog fyrr er rædt,
hetja, Lofnar í líking,
stödvadi þad og strax fekk grædt.

Ríkur miskunar mest,
mikill stirkleika' og ráds,
vor Gud! vort bættu bezt
bidid tjón Vesturláds,
einn *Kvennlund* eins fullkominn
send því! Hjálprædis þörf er bráds.

Ídilglöd einsog sól
upp rann hvern morgun blíd,
fyrir oss önn vel ól
okkar samvista tíd;
vakti, fræddi, varadi,
upplýst, gudhrædd ad ordsnilld þíd

Daudans þó sárbeitt sigd
sæfdi' hennar únga fjör,
slíkrar samt deyr ei dygd
né dírda-yndis-kjör.
Uppstigníngar-dag Drottins
hóf hún veglega himnaför.

Upp til þín Gud! vor Gud!
grátandi mænnm vér.
Veíztu bezt vorn söknud;
vort er allt traust á þér.
ó! ad Eins Mættum Daudan
sjá glöd og sú, nu syrgjum hér!

Raunnm sárt hrelldann hag
húsfödursins álit!
Og nýum yndisdag
af þinni mildi flít!
*Verdi þinn vilji! Fadir!*
Sorgastef þessi

*Svo Jeg Slit.*

